# Æfisaga og Ættartala

Biskupsins yfir Hóla-stipti,

# Arna Þórarinssonar,

(fæddur 19da Aug. 1741, deydi 5ta Júlí 1787.)

og

Hans Ekta-Frúr

# Steinunnar Arnórsdóttur,

(fædd 28da Oct. 1737, deydi 7da Nov. 1799.)



Leirárgørdum vid Leirá, 1800.

Prentadar á kostnad sáluga Biskupsins Erfingia,

af Faktóri og Bókþryckjara G. J. Schagfiord.



# Æfisaga
## sáluga Biskupsins
# Arna Þórarinssonar.



Hann er fæddur í þenna heim ad Hjardarholti í Dølum, ad morgni þess 19da Aug. árid 1741.*) Hjá sínum gódu foreldrum uppólst hann, medan þau lifdu; misti hann strax á sínu 2ru alders-ári sína dygdaríku módur, en sinn elskuríka fødur á því 11ta, sem hédan burtkalladist árid 1752; hafdi þó þessi námgjarni og velgáfadi únglíngur mikil not af

A 2 sins

*) Þar ed sáluga Biskupsins Ættartala fylgir hier strax á eptir Æfisøgunni, svo er hún med vilja útilátin á þessum stad.



síns góda fodurs uppfrædíngu; Því medan hann lifdi, vardi hann allri kostgjæfni til ad uppala Þenna sinn son, í gódra sida og lærdóms-ménta æfíngum; hafdi hann Þegar á 5ta alburs ári lært svo vel ad lesa, ad hann Þá var farinn ad skrifa, en 8ta vetra var hann vel á veg kominn med Pontoppidans Barna-lærdóm; fór hann Þá og eptir Því, ad nema nockud í Reiknings-list, og litid eitt ad hræra vid látínu-lærdómi, svo hann, Þégar fadir hans andadist, hafdi nád meiri framförum í Þesshattar lærdóms-greinum, enn flestir á Þeim aldri, en einkum í Því, ad skrifa snoturlega, Því Þeir, sem Þá sáu skriftar-hönd hans, dæmdu hana svo fullkomna, sem velæfds og fullordins skrifara, og Þad í betra lagi, eptir Því, sem Þá var ad gjera; kom honum Þad sídar ad gódu gagni bædi utanlands og innan, einkum vid Háskólann, hvar námgjörnum Stúdentum er Þad ecki litil hjálp, ad géta skrifad bædi fljótt og ásjálega, líka og í hans veikleika á sídustu árum, Þá hann mátti allopt í sænginni gégna mörgum embættis erindum; var hann og tal-

inn med enum bestu og fljótustu riturum hér á landi, á hans dogum.

Eptir þad vor sæli Biskup hafdi þannig sied á bak sinna elskudu foreldra, rádstafadist hann til þess fróma og margfróda ærumanns, Sýslumanns í Borgarfjardar-sýslu, Arnórs Jónssonar og hans egta-qvinnu, en fodur-systur sinnar Steinunnar Jónsdóttur, og var ad þeirra forlagi settur til lærdóms ydkana ad Middal, til þarverandi Prests Eyríks Brynjólfssonar, velgáfads manns, hvar hann dvaldi ad þeirri ydn í 3 vetur; en eptir þad Þórdur, sonur Sýslumanns Arnórs, útskrifadist úr Skálholts-skóla, árid 1755, kénndi hann vorum sæla Biskupi í heima-húsum í 2 vetur, med enni mestu alúd og ástundun, undir hvors tilsogn hann tók svo gódum framforum, ad hann sjálfur optlega medkénndi: ad hann ætti þess únga manns mikid gódu og heppnu uppfrædíngu stórmikid ad þacka; var hann þareptir eina 2 vetur í Skálholts-skóla, undir kénnslu þess lærda manns og nafnfræga úngdóms-frædara, Mag. Bjarna Jónssonar, hvadan hann



med besta vitnis-burdi útskrifadist árid 1760. Lék þad ord á í Skálholts skóla: ad færri mundu þeir, er betur ad sér þadan farid hefdu, enn vor sæli Biskup, og sessunautur hans, Magnús Gudmundsson, er sídar vard Handlæknir í Nordlendínga-Fjórdúngi.

Ari sídar, edur 1761, sigldi sál. Biskupinn til Kaupmannahafnar háskóla, og tók þá, í Decembr. mánudi sama árs, sitt fyrsta Examen, med gódri lucku; og var strax þar eptir í Stúdenta tolu og stand inntekinn. Nálægt nýári 1762 lagdist hann í Mislingum, en komst þó nockurnveginn til heilsu aptur ad 3 vikum lidnum, þó ecki betur enn svo, ad hann fann þann vetur til nockurra óhæginda þar af, hversvegna hann ecki vogadi ad gánga svo opt, hann annars óskadi og vildi, á Collegia, engu ad sídur var hann sér ecki gagnslaus, heldur, þar hann hafdi nú gefid sig til heims-spekinnar æsíngar, uppskrifadi hann sér og yfirfór *Gunneri* Collegium yfir Logicam, og fleiri þesshátar Præcepta Philosophica. Sumarid þareptir, yfirfór hann med kostgæfni hid gríska No-

Novum Teſtamentum og fleiri Rit þeſs túnaumáls; en hauſtid og veturinn eptir heyrdi hann Collegia Profeſſorum Philoſophiae; lagdi ſig og jafnframt eptir enni hebreſku túngu og Mælingar-frædinni. J Septembr. mánudi árid 1763, tók hann Examen Philoſophicum, og fēck Characterem Laudabilem; en þad eptir var árſins og eptirkomandi vetur, hélt hann áfram ad æfa ſig í Hebreſkunni, og ſókti ydulega á Próféſſors Kalls Collegium Analyticum og Curſorium in Biblia ſacra, ſkrifadi ſér einnig upp Collegium Metaphyſicum *Gunnerianum*, og Juridicum *Obelitzianum*.

Arid 1764, í Maí mánudi, reiſti vor ſæli Biſkup til födurlandſins; var hann þá fráverandi ſæmdur Baccalaurei nafnbót af Facultate Philoſophica; en ad fáum mánudum lidnum, ſigldi hann aptur til Kaupmannahafnar, og eptir þad lagdi hann ſig, fyrir alvöru, eptir Gudfrædinni, las heilaga Ritníngu koſtgæfilega í Adal-túngumálunum og hlýddi med gaumgæfni Háſkólans nafntogudu Lærifedrum, einkum Roſenſtand og Cramer; hélt

 hann



hann þeirri ydju í 2 ár, med enum hrósverdaſtu framſörum. Um þenna tíma ſkrifadi hann og héldt ſvo kallada Diſputatiu: De fide servanda, og enn þá adra, ſem er enucleatio edur explanatio Dicti, *Gen. 6. v. 5.* Hann hafdi þar og byriad ad ſkrifa bækling nockurn á Látínu: de variorum Liberalitate ad pios uſus, en hann var þá ecki til lykta leiddur, kom þó út ſídar á donſku 1770 med þeſſum titli: Velmeente Tanker om geiſtlig Gavmildhed, einka ſnoturlega ritadur, og ſem ber ó-ræk merki, um vors ſæla Herra fodurlands-elſku, einkum hvad hid geiſtlega áhrærdi.

Arid 1766 tók vor ſæli Biſkup ſvo kall-ad Atteſtats, med velforþéntu hróſi, og feck Characterem Laudabilem, ſamt eng beſtu vitnisburdi frá Háſkólanum, hvar hann vegna lærdóms ſins, ſidprýdi, ſnotrar umgengni og ferdugleika var í miklum metum hjá ollum merkis-mennum, er hann þecktu; var honum engu ólidugra ad tala danſka túngu enn ſitt egid módur-mál. Þeſs gat og Biſkupinn ſálugi: ad þegar hann var í Kaupmannahøfn, hafi

hann,

hann, af einhvorjum málsmetandi manni, magnlega áſýſtur verid, ad géfa ſig til ens veraldlega og løgſpekinnar ydkunar, í hvorri hann hafdi þá gódri þeckingu nád, og viſſum grundvallar reglum, mátti þad og medal annars ſjá á embættisbréfum hans, ad hann bar góda kénnſlu á laga-vitſku, og þad framar fleſtum þeim, er ecki høfdu gjort hana ad ſinni adal-ydkun; hann hafdi einnig vid Háſkólann, ſem ſkarpur og námgjarn madur, fengid góda undirſtødu í þeim víſindum, ſem bjargrædisvegum manna, landſtjórn, liſnadar-háttum og þeſsháttar, eru vidkomandi, hvar til og mikid ſtodadi ſamneyti hans og ſífeld umgengni med frændum hans og félogum, þeim Arnórsſonum frá Belgsholti (einkum þeſs yngra, er ſafnad hafdi ſér gódum og gagnlegum bókum til ſlíkra ydkana), hvorjir honum ſamtída vóru vid Háſkólann, og løgdu ſig eptir løgſpekinni, ſem bádir urdu þar eptir Sýſlumenn hér á landi; játadi ſálugi Biſkupinn þad opt, ad ſú þeckíng hefdi ſér einatt ad gagni komid, þá hann var ordinn embættismadur.



Þegar hann nú hafdi, sem sagt er, tekid Atteſtats, og vakid tídinni svo vel og ſkynſamlega til sinna beſtu framfara, dvaldi hann þó enn þá í Kaupmannahøfn, til enn frekari fullkomnunar, med allri hinni sømu lærdóms eptirsókn og ádur, svo hann, á sínum tíma, gæti ordid fødurlandi sínu til sem meſtra nota, uns hann lokſins fór þadan þann 29da Maí 1767, og ſkyldi þar vid marga góda vini og velunnara, medal hvorra einn hinn helſti var Doctor Cramer, hvors hann ætíd sídan minntiſt med elſku og ſtórri virdíngu.

Þá hann var nú til landsins kominn, og eckert braud var þá lidugt, er hann kynni uppheldi af ad hafa, var hann í Belgsholti hjá Sýſlumanni Arnóri og fødurſyſtur sinni þad sumar, en fór um hauſtid á Eyrarbacka til Kaupmanns Laſſens, og kénndi þar 3ur sonum hans, bædi ad ſkrifa og reikna, ſamt einum þeirra látínu (hvørjum hann og sídar kénndi út og dimitteradi til Háſkólans); hafdi hann þeſſa ydn í 2 ár, á hvørjum hann gat ecki braud fengid; var þá ſtundum farid ad hvarfla í

þánka




þánka hans ad sigla aptur, þótt hann heldur vildi géta þént sínu fødurlandi. Þess var þá og ecki heldur lángt ad bída, ad þar til gæfist gott tækifæri, því fyrir tímanlegann dauda Prestsins Gísla Sigurdssonar á Lambastødum, losnudu Seltjarnar-ness þíng í Gullbríngu-sýslu, fyrir hverjum vorum sæla Biskupi var veitíngar-bréf útgéfid þann 13da Júní 1769, af þá verandi Amtmanni, nú Stiptamtmanni þessa lands, Herra O. Stephánssyni, og þángad vígdur af sál. Biskupi Doctor F. Jónssyni á sjálfa Þíng-Maríu-messu, edur 2ann Júlí þar-næst eptir. Veik hann nú strax til sókna sinna og settist ad Lambastødum, hverja jørd hann fór strax ad hressa vid, bædi ad sæmilegri bygging og ødru er þéna kunni henni til umbóta; vard þá skjótt vart vid framqvæmd hans og stjórnsemi; tók nefnd jørd svo stórum bótum, eptir þad hann hafdi á hana settst, ad Konúngleg Hátign gaf honum þar fyrir 10 ára afgjald jardarinnar 1772, en Landbústjórnar-Félagid sæmdi hann 1777, med 20rdla. Heidurs-skeink, hvørs korrespon-



derándi Medlimur hann gjørst hafdi árid 1771.

Næsta ár eptir þad hann settst hafdi ad Lambastødum, inngéck hann heilagann Ekta-skap med Jomfrú Steinunni Arnórsdóttur, eptir þar til fengnu Kóngs-leyfi (því þau vóru systkyna born), var þeirra brúdkaup haldid á Kóngsgardinum Bessastødum þann 1ta Júní 1770. Þeirra hjónaband blessadi Gud med 9 bornum, fæddist þeim fyrst Magnús 1772, Þórdur 1773, Þórarinn og Gudmundur tvíburar 1774, Páll 1775, Jóhann 1776, Arnór 1777; en Astrídur, fædd 1778, og Rannveg 1781, deydu strax á úngbarns aldri.

Þegar hann vígdist til Seltjarnar-ness þínga, var þar 4um kirkju-søfnudum ad gégna, nockrum af þeim mjøg fólkríkum; var þad hvorttveggja, ad þar var mikid ad gjøra og mørgu í lag ad koma, enda fengu þá sókn-ir þær þann mann fyrir Sálusorgara, sem, auk mikils lærdóms og bestu gáfna, var enn øruggasti framqvæmdar- og dugnadar-madur, hvorjum framyfir allt var hugarhaldid, þannig ad

ad stunda embættid og øll þess skyldu-verk, ad hann væri sér engrar forsómunar edur hjá-hlidrunar medvitandi; hjá hvorjum bædi var sá dugnadur og framtak er á þurfti ad halda í þeim stad, hvar margsháttar fólki var ad gégna, bædi hærri og lægri stéttar, útlendu og innlendu, til þess ad allt gæti gengid med gódri reglu og sidsemi, en safnadanna gagn og velferd eblist og aukist; svo þó hans sóknar-børn hefdu mátt sér af morgum Prest velja, er vansied hvort þau gétad hefdi sér þann kosid, er þeim væri eins þénanlegur eda hagqvæmur, og þessi, er forsjón Guds þeim þá úthlutadi. Þad var madur sá, sem ecki vantadi røggsemd og al-vørugéfni, þá þess þurfti vid, ecki heldur ad brúka lempni, þá þad sýndist betur haga, og kunni vel, med viturlegum fortølum, ad leida fyrir sjónir þad, sem í hvorjum hlut mátti til betra horfa; því ad gjora sem flesta ad gód-um og dygdugum manneskjum, og þannig ad styrkja þeirra tímanlegu og eilífu velferd, var hans adal-augnamid og einka hjartans eptir-láungan.



Á úngdómsins uppfrædíngu, í sínum fólk-ríku sóknum, lagdi hann mestu alúd, svo sem hann ecki einúngis i kirkjunum spurdi born og undirvísadi þeim, eptir Kóngsins fyriskipun, heldur og gjordi hann þad jafnadarlega þarad-auki heima hjá sér, milli helga, og lét bornin þángad til sín gánga optlega, þá færi gafst; en þau born, sem firmast skyldu, lét hann koma til sín nockrumsinnum í viku hverri; undanfelldi hann ecki heldur í sínum húsvit-junum og endrarnær, ad áminna og upphvet-ja foreldra og húsbændur til ad gæta sinnar mikilvægu skyldu í barnanna undirvísun; var því úngdómurinn í sóknum hans vel uppfrædd-ur, hvar fyrir hann fèck velforþént hrós hjá sínum Yfirvoldum, í þeirra Visitatium, syndi hann og þannig med sínu eptirdæmi, hvorsu miklu einn árvakur sálusorgari fái í þessum annars orduga hlut til leidar komid, til úng-dómsins velferdar, og þad í þeim fólkríku sókn-um, er hann hafdi ad þjóna; hvar líklega margt fyrifellur til tafar og frákalls, meir enn vída annarstadar.

Med

Med fátækra ástandi í sínum sóknum, hafdi hann ena náqvæmustu tilsjón, og ad allt gengi reglulega til, bædi med inngjald og útsvar þess, sem þeim er til uppheldis áqvardad; h'utadist hann til, ad þeir, sem réttilega áttu þess ad njóta, færu ecki varhluta, sem og, ad sparsamt og forsjálega væri med þessháttar fémuni höndlad. Þetta áleit hann sína embættis-skyldu, og færdi þad í mörgu gódann ávöxt, og þad medal annars, ad þá hann loksins skyldi vid Seltjarnar-nes sóknir, áttu fátækir þar liggjandi drjúgann forlags-eyrir, sem mátti gjöra þeim stórann styrk í uppákomandi tilfellum, án þess þá þyrfti ad leggja ný þýngsli uppá búandi fólk í sveitinni; eptir hvörju forsjálnis-dæmi verdt væri ad breyta.

Vidlíka tilsjón og umhyggju bar hann fyrir kirkjum og ödru fleira, sem hans embætti var vidkomandi á einhvörn hátt; og má af þessu, sem ádur er talid, glögglega sjá, ad hann í sínu Prests-embætti, vildi med állri alúd stunda sinna safnada gagn og nytsemi, gjördi hann þad ecki ad eins med uppfrædingunni



unni í ordinu, heldur og einnig med gódu eptirdæmi og áſýſingu til þriſa og rækſlu, gódrar medferdar og nýtíngar á Guds gáfum, hóffemi, ſparſemdar, manndóms og dugnadar í ſinum bjargrædis útvegum, med ødru fleira.

Þó hann heſdi nú þannig ætid nóg ad ſýſla, lét hann ſamt ecki ſínar litlu fríſtundir ávaxtarlauſar burtu lída; því ydjuſemi og framqvæmd var honum ſvo eginleg, ſem ydjuleyſi med ónytjúngſkáp gagnſtædt og fráleitt; ſkal því þeſs geta: ad medan hann enn þá var fyrir ſunnan, ſamdi hann eptir einhvørs mikilsháttar velunnara tilmælum, ſmá-rit, ſem enn eru til in Manuſcr., ſvo ſem: vidvíkjandi Kénnidóminum og Húſs-ſtjórninni á Islandi; líka ſvo um Politie, fátækra áſtand og medhøndlun, ſamt betri medferd þeirra fjármuna; vildi hann med ſlíkum Ritlíngum géfa løndum ſínum hugvekju um eitt og annad ábótavant í þeſſum hlutum, og ſýna hvørnig þad kynni ad bætaſt og lagſæraſt, til Fødurlandſins gagns og nytſemdar. Einnig ſamdi hann Rit-korn: um Kaupverſlunarinnar

nyt-

nytsemi, samt hennar naudsyn og rétta brúk-
un í heiminum; og fleira þarflegt og lærdóms-
ríkt, tók hann sér fyrir hendur ad erfida uppá,
þó ecki sé hér upptalid. Af øllu sliku komst hann
í akt og álit, og þad svo, ad hann strax Prest-
ur, var, ásamt þá verandi Prófasti í Arnes-
sýslu Jóni Teitssyni, útnefndur til ad verda
Biskup á Hólum, eptir fráfall Biskupsins sál-
uga Gísla Magnússonar; en þar ed Pró-
fasturinn var hinum miklu eldri og reyndari í
Prests og Prófasts-verkum, hafdi einnig í
Biskups stad vísiterad Vestfirdi fyrir sinn
aldrada Tengda-fødur, sáluga Biskup Doctor
F. Jónsson, var hann af fleirum áhýstur ad
taka ad sér þad liduga Biskups-embætti, hvørs
vegna vor sálugi Biskup sigldi ecki í þad sinn,
vel ánægdur med sitt þáverandi stand, hafdi
hann vel blessast á Seltjarnar-nesi, var ord-
inn þar kunnugur og af mørgum elskadur, svo
hann þá girntist ecki þadan ad víkja

Þegar sá lærdi Prófastur í Kjósar og
Gullbringu-sýslum, og Prestur til Garda og
Bessastada, Gudlaugur Þorgeirsson, treysti st



ecki lengur til ad þjóna Prófasts-embættinu, var vor sæli Biskup af ollum Héradsins Prestum sameginlega í hans stad kosinn, og þar eptir þann 16da Júní 1781 þar til settur af sáluga Biskupi Doctor F. Jónssyni, gêck hann ad sonnu ófús undir þad, því hann þóktist, eins og satt var, nógum embættisverkum hafa ad gêgna í sínum folkríku sóknum, sem ecki máttu opt hans persónulegrar nálægdar án vera; þó framqvæmdi hann Prófasts-verkin, sem honum vóru þannig uppálogd, med sømu trúmennsku, umsjón og árvekni, sem hann sýnt hafdi í Prests-embættinu; var hann einnig, sem lærdúr og grúndadur madur, tilqvaddur ad vera í Commissioninni, er haldin var um Biskups-stólana árid 1781.

A sama ári tilféll honum þúngur sjúkdómur, sem þannig veikti heilsu hans, ad hann eganneginn sá sig færann til ad þjóna lengur, án medhjálpara, þeim adkallssomu Seltjarnar-ness þíngum; tók hann þá fyrst til ad lánga eptir nádugra braudi, hvad honum og hlotnadist, því konúngleg Hátign veitti honum

um þá Odda stað. Þángað fór hann alfarinn 1782, og qvaddi med trega og søknudi sína elskudu søfnudi í Seltjarnar-ness þíngum, en jafnframt med þeirri gledilegu fullvissu í huganum, ad hann hefdi þar ecki óþarfur verid, heldur med Guds fulltíngi verid medal og verkfæri ens almáttuga til margra gódra og nytsamlegra hluta upphvatníngar og framqvæmdar, í tjedum søfnudum.

Á því hæga og lífvæna Odda braudi hefdi hann, nú heilsulinur ordinn, feginn viljad lifa og deyja, en sú hans ósk vard ecki uppfyllt; því á sama sumri og hann til Odda flutti, feck hann konúnglega skipun, ad koma til Kaupmannahafnar og taka þar Biskups vígslu, því þá var Hóla Biskups-dæmi aptur lidugt, eptir burtkøllun sáluga Biskups Jóns Teitssonar. Þetta var honum enginn fagnadar bodskapur, í slíkum kríngumstædum. Heilsu linleiki hans, ánægja med sitt þáverandi ástand, sem og þad, ad hann hvorki þóktist fullfær edur efnadur til ad taka uppá sig þad va..dasama embætti; allt þetta latti hann mjøg og



afrédi, hvar fyrir hann, bædi þessara og annara fleiri orsaka vegna, ecki sigldi það haust, heldur skrifadi audmjúkt affsökunar-bréf til ens danska Cancellies, hvort þó, vegna óvæntra tilfella og óvedra, ecki nádi skipum, og hafdi því enga verkun; en af gódra vina bréfum frá Kaupmannahøfn árid eptir, vard hann þess vís, ad hans væri þángad vænt, og menn furdadi þar á því, ad hann ecki hefdi komid hid fyrra haustid; sá hann sér því ecki annad rádlegra, enn ad búast til siglíngar. En svo hann gæti gjort þad med því meiri notum fyrir Hóla-stipti, og sjed nockud med egin augum þorf þess og ástand, reisti hann snøggva ferd um sumarid nordur ad Hólum, og táladi um stiptisins efni vid þá verandi Stiptprófast, þann hálærda mann, og þeim hlutum øllum gagnkunnuga, sáluga Rector Mag. Hálfdán Einarsson. Um haustid sigldi hann til Kaupmannahafnar, var þess skjótt vid hann á leit farid, ad hann tæki Biskups-vígslu, en hann fæ-st undan nockud frameptir vetrinum, og afsakadi sig þar frá; en eptir þad konúngleg Há-





Hátign hafdi gefid honum allranádugast fyrirheit, um nockurn toluverdann styrk til Biskupsstólsins og skólans naudþurftar á Hólum, lét hann tilleidast ad takast Biskups-embættid á hendur, felandi sitt málefni Gudi og Kónginum á vald, í þeirri vissri von, ad sá, sem hann hafdi dásamlega leidt, styrkt og verndad til þess þá var komid, mundi hid sama gjøra framvegis; var hann svo til Biskups vígdur af Sjólands Biskupi Doctor N. E. Balle, annann dag Páska 1784, og var hann sá fyrsti, er hann vígdi til Biskups.

Vorid eptir reisti Biskupinn sálugi aptur til Islands, og fann þá sitt kjæra fødurland í enu bágasta ásigkomulagi, eptir þá miklu neyd, er yfir þad géck árin 1783 og 1784; hafdi hann ad sønnu þá gledi, ad finna sína elskulegu Frú og børn lífs og heilbrýgd, en qvikfénadur þeirra, sem annara, hafdi þann vetur nidurhrunid, vár því stærsti ørdugleiki á, ad komast med allann sinn varnad nordur til Hóla, í slíku ástandi; þó gat þessi mikli útsjónar- og framqvæmdar-madur þannig yfirunnid øll þau

 vand-



vandrædi, ad hann, med allt sitt heimkynni og meſtallann ſinn flutníng komſt alſarinn frá Odda ſtad ſnemma í Aug., gengu þá, medan ſú leſt var á leidinni, þeir miklu jardſkjálftar, er ſtórt tjón gjordu vída fyrir ſunnan land, en Biſkupinn ſálugi komſt med fólk ſitt og varnad luckulega ad Hólum þann 24da nefnds mánadar. Vid hans híngadkomu, var Nordurland í aumkunarverdu áſigkomulagi; menn og qvikfénadur hafdi þad ár hrönnum fallid hér, í fleſtum ſveitum, og héldſt þó mannfallid vid einnig á árinu þar eptir; ſtólſins jardir vóru ſumar í eydi, ſumar bygdar ad kalla, ſvo ecki gáſu af ſér nema nockurn part landſkulda; í einu ordi ad ſegja: var hér allt nærſta bágborid. Enginn ſkóli vard haldinn þad ár, og um veturinn 1785, andadiſt á Hólum enn hálærdi merkismadur, ſálugi Rector Mag. Hálfdán Einarsſon, geck Biſkupinn ſálugi þrálega til hans, og var hjá honum lángſtundum í hans ſjúkdómi, dádiſt þar hvorr ad annars lærdómi, og þókti Biſkupinum ſtór miſſir ad ſlíkum manni, bædi í tilliti til ſkólans, og margfaldrar upplýſíngar,

er

er hann gat hjá honum fengid í stiptisins er-indagjordum. Um vorid þar eptir, tók vor sæli Biskup ad sér umsjón og medferd á stolsins gótsi, sem ádur var undir hondum Oeconomi Jóns Arnasonar, og þó inngjold væru þá nærsta lítil, og bágt til bjargrædis-útvega, lét hann þó setja skólann um haustid eptir, og var hann haldinn framyfir Krossmessu um vorid, hefdi þó stadid lengur, ef bólu-sóttin hefdi þá ecki komin verid í Héradid, en hennar vegna var uppsogninni flýtt. Þann vetur vóru ecki nema 12 piltar í skólanum, vóru þad einúngis þeir, sem ádur hofdu þar verid, en engum nýjum vidbætt í þad sinn. Þad sumar géck bólan hér yfir; misti Biskupinn sálugi í henni 2 sonu sína; Þordur sáladist á Hólum, gott mannsefni, sem fadir hans unni mikid, og Þórarinn, er var til kénnslu hjá Mag. Bjarna Jónssyni, Presti ad Gaulverjabæ; úr somu sótt ondudust og 3 af ádurtoldum skólapiltum. Veturinn þar eptir var einungis skóli haldinn, þó hann væri þá enn fámennari enn hid fyrra árid, var honum uppsagt vid sjálfa Hvitasúnnu



um vorid 1787, og þá frá skólanum 2 piltar útskrifadir.

Med skólanum hafdi vor sæli Biskup ena náqvæmustu umsjón, og sjálfur uppfrœddi hann skólans limi kostgæfilega í Gudfrœdinni á hvorjum Sunnudegi, þá hann mogulega seck því vidkomid; þaradauki lét hann þá, sem útskrifast skyldu, margopt gánga inn til sín, þá lida tók á þeirra sídasta vetur, til enn frekari uppfrœdíngar, þó hann þá optsinnis væri svo lasburda, ad ecki gæti úr sænginni komist; var þad hans náttúru-lyst og eptirlæti, ad kénna, og hans mesta gledi, ad komast ad raun um hjá únglíngum, framfarir og manndóms-fýsn; hafdi hann og, sitt sídasta ár, dregid svo mikil faung til stólsins, ad hann ætladist til, ad skólinn skyldi haldast þar eptirleidis, med því ákvardada skólapilta tali, hvad hann einnig hafdi med bréfum géfid Kénnidóminum í stiptinu til vitundar, og sjálfur, ádur hann vidskyldi, fyllt ad mestu ef ecki ollu leiti olmusu-plátsin med þeim únglíngum, er hann áleit þar til hæfasta af þeim, er sig frambudu; var þad undirlag

af

af honum gjört, ad ölmusu-piltarnir skyldu þar eptir fá sina úthlutada kostpenínga, 20rdli 64 ß. fyrir hvörja heila ölmusu, og þar uppí nockud af þeim þénanlegasta mat med gódu verdi, sér til uppheldis; sparadist þar vid fólkshald, lesta-ferdir og margur annar kostnadur og fyrir-höfn, er ádur útheimtist til Skólans forsorg-unar, og hefir þeirri reglu sidan fylgt verid. Einnig hafdi hann í áformi, ad láta endur-bæta Skólans byggíngar, med nockurri um-breytíngu, til enn meiri hægda og nota. Og þar hann ecki hafdi sparad ad skrifa vidkom-andi Collegium í Kaupmannahöfn, og ná-qvæmlega útlistad Stiptisins og Biskupsstól-sins þá verandi bágborna ástand, hofdu híng-ad verid innsendir nockrir hjálpar-peníngar til Hóla-stóls naudþurftar, hvad ecki litid gladdi vorn sæla Biskup, og gaf honum bestu von um, ad geta þar med framqvæmt eitthvad gott og nytsamlegt, til Stiptisins og Skólans gagn-semda; en þarámóti féck honum þad ecki lit-illrar áhyggju, þá hann, sinn sidasta vetur, féck bréf og ávísun um þad, frá Kammer-



herra og Stiptamtmanni H. v. Levetzow, ad Hóla-skóli skyldi afleggjast, og sameinast hinum, er settur var í Reykjavíkur Kaupstad; áleit hann slíkt Hóla-stipti í margann máta skadlegt, og skrifadi þarámóti í Martsió 1787, vard honûm og þar í samtaka og samdóma hans Med-directeur yfir Hóla-skóla Oeconomie, Hra. Amtmadur S. Þórarinsson; kom vorum sálugu Biskupi þetta heldur óvart, og mátti á honum heyra, ad þá Skólinn væri burttekinn, hvors umsjón væri einn höfud-póstur í Biskups-embættinu, og hvarf hann gæti haft enar notabestu verkanir til almennings gagns og góda, þá sýndist Nordurland bída þar af enn mesta skada, er sjáanlegastur yrdi í framtídinni, og þá svo væri komid, virdtist ecki mjög vandfenginn Biskup til Hóla.

Synodum heldt hann á Flugumýri þau 3 haust er hann var hér Nordanlands, gégndi hann þar med greind og roksemd þeim Stiptisins erindum, er fyrir hann komu, og úthlutadi med mestu náqvæmd og sannsýni þeim peníngum, er lagdir vôru til hjálpar Prestum,

Presta-

Prestakøllum og Presta-eckjum, eptir því, sem hánn áleit haggvæmast vera hvørs og eins vidkomenda þørf og ástandi.

Um haustid 1785, var burtrifid þad svo kallada Nýjahús á Hólum, er mjøg hrálegt var ordid, þó ecki væri med øllu nidurhrunid; hafdi þad þar byggt verid af Biskupi Gudbrándi Þorláksfyni. Med sinni miklu útsjón og framqvæmd, gat vor sæli Biskup því í verk komid, hvørsu bágt, sem þá var um hesta og fólk, ad allur vidur og annad, sem þursti til ens nýja Timbur-húss á Hólum, var ecki einúngis heimflutt, heldur var og tekid til þess byggíngar, hvar Nýjahúsid hafdi ádur stadid, á Góu um veturinn nærst eptir; géck þad starf bædi fljótt og vel, undir hans ydduglegri tilsjón, svo hann gat flutt sig sjálfann og fólk sitt í þad, um nærstu veturnætur þar eptir. Í einu herbergi þessa húss, lét hann tilbúa haggvæma skápa og hyllur, fyrir Stiptkistunnar bækur, skjøl og Dócúment, svo þar er nú allt greidara adgaungu og reglulegra enn ádur. Í sama stad var og mesti partur af hans



hans gódu bóka safni, var hann því einatt í þessu herbergi, lagdi hann og mestu stund á, frá því hann nordur kom, ad gjöra sig Stiptsfistunni sem allra kunnugastann; áleit hann þad, sem sína Biskups skyldu, fyrir utan þad, hann, sem mikill fródleiks elskari, hafdi þar af eptirlæti; let hann sér ecki nægja slíkra skjala lauslegann lestur, heldur vildi hann og ná vissri undirstødu í hvørjum hlut; hvørs vegna hann bar opt undir adra, er hann meinti þar á skynbragd hafa, eitt og annad, sem fyrir hann kom vandrádid eda fornyrdt og nú úreldt, í þeim gømlu skjølum, líka skrifadist hann á um margt þesshúttar, til frekari vissu og upplýsíngar, vid þann hálærda mann og mikla Antiqvarium Prófastinn sáluga Gunnar Pálsson.

Þó hann, ástandsins vegna, ecki gjæti vísiterad Stiptid á þeim ørdugu tídum, vildi hann þó eckért forsóma, þad hans embætti snerti og almenníngi væri til nytsemda, var hann jafnan ydjusamur þar í, samt fljótur og forsjáll í því, ad gefa gódar og greinilegar úrlausnir í hvørju einu, er fyrirfell og undir hans

álit

álit kom, þó slikt verdi hér ecki upptalid. Hann hafdi annars stadfastlega áſett ſér ad víſitera Þíngeyjar-ſýslu sumarid 1785, en þá geck Bóluſóttin yfir Nordurland, ſem hindradi þad áform hans.

Strax eptir þad hann var Biſkup ordinn, tók hann fyrir ſig, ad erfida uppá nýja Meſſu-ſaungs- og Pſálma-bók, þar hann fullvel þeckti hvorſu laklegir og lítid uppbyggilegir margir kirkju-pſálmar Grallarans vóru, valdi hann úr þá beſtu þeirra, en í ſtad enna úrfeldu, ſetti adra nýja, ſem fleſtir vóru úr þeirri nýju dönſku Pſálma-bók útlagdir af þjódſkáldinu, Preſtinum Hra. Jóni Þorlákſsyni, og radadi þeim ordulega til hvors helgidags, ſendi ſídan þetta ſafn, þann ſeinaſta vetur hann lifdi, til ens há-lærda, nú ſáluga Biſkups Doctors H. Finns-ſonar yfirſkodunar; en þar vor ſæli Biſkup endtiſt ecki til ad gjöra meira, er þad máſke geymt vorum lærda Lögmanni og fodurlands elſkara, Hra. M. Stephenſen, ad fullkomna þetta naudſynlega verk.



Fátækra ástand í þessu Stipti var mjøg aumkunarverdt um þær mundir, vildi hann fegjinn þar á bót ráda, seck einnig, med Herra Amtmanns S. Þórarinssonar styrk, komid nockurri reglu þar á, til gódrar byrjunar, en mundi víst hafa meira gott framqvæmt í því efni, ef Stiptid hefdi hans lengur notid. Eins hafdi hann gløggva tilsjón ásamt Hra. Amtmanninum, um Hospítalsins ástand og reikninga, og þessir miklu dugnadar-menn mjøg samtaka í morgu slíku, er almenníngi mátti til gagns horfa. Biskupsstólsins álagspeninga, hér um 500rdli, er sálugi Biskupinn medtók, setti hann á rentu í Kóngsins kassa, Stiptuninni til nota.

Þá, sem prestvígdir vóru í hans tíd, rannsakadi hann med mikilli kostgjæfni, uppfræddi þá undir eins og gaf hvorvetna en bestu rád, ad þeir gætu ordid til því meiri nota framsvegis, í þeirra mikilvæga embætti. Þetta hid sama gjørdi hann sjálfur í egin persónu einnig vid þá 2, sem seinast vígdir vóru ad honum lifanda um vorid 1787, þó hann væri þá ord-

inn

inn svo óhraustur og vanmegna, ad enganns veginn treysti sér til, ad géta stadid ad þeirra víaslu í dómkírkjunni, hvad Hérads-Prófast-uriñ þess vegna, eptir hans tilskipun, framqvæmdi.

Af þessu, sem nú er rint, má glögglega sjá, hvad mikid Nordurland misti í slíks manns fráfalli, og hvörsu mikilla nota þad hefdi mátt vænta sér af hans forsjón, framqvæmd og dugnadi, ef hans hefdi, í bærilegu árferdi, nockud lengur mátt adnjóta.

Frá því hann lá sóttveikur á Lambastødum, sem ádur er ávikid, var hann jafnan óhraustur til heilsu, fór þad heldur í vøxt, eptir þad hann til Hóla kom; en hans medfædda fjør og dugnadur gjørdi þad, ad ecki bar svo mikid á því lengi vel fram eptir; þvíngadi hann tærandi sjúkdómur med brjóstveiki, svo hann sitt sídasta ár mátti opt vid sængina halda, einkum þá leid á veturinn 1787, og vorid þar eptir; þó hafdi hann alla góda greind og tilsjón med øllum hlutum lengst af í sænginni, gaf med hvíldum gjørt uppkast til sinna embættis-bréfa, edur og lesid þad ødrum fyrir,



og sagt til hvors eins er hann vildi vera láta.
Eptir Fardagana tók smámsaman meir og meir
ad, draga af kroptum hans, til þess honum
þyngdi fyrir alvøru eptir Jóns-messuna; var
þá ecki heldur lángt ordid ad bída gledilegra
umskipta fyrir honum og eptirþreydrar lausnar
frá þessa heims armædu, er skédi fyrir hægt
og sáluhjálplegt andlát ad morgni þess 5ta Júlí
her um kl. 2, í vidurvist sinnar heittelskudu
Ekta-frúr, er ásamt þjónustustúlku sinni hjá
honum vakti; hafdi hann þá lifad ecki full 46
ár, þjónad í Prests og Prófasts-embætti 15
ár, verid þar eptir Biskup rúm 3 ár, en í
hjónabandi 17 ár; hafdi hann, sem Biskup,
vígt 7 Presta (med þeim 2ur, hvorra ádur
er getid), tilsett 1. Hérads-Prófast, og kallad
1 Rector til Skólans, þó hann ecki innkjæmi
frá Kaupmannahøfn fyrr enn sídar. Hans
andvana líkami, var med sómasamlegri lík-
fylgd jardsettur í Hóla kirkju-gardi, (eptir sál-
uga Biskupsins egin fyrisögn, vid leidi sonar
hans Þórdar, er deydi næsta sumar ádur)
þann 19da Júlí nærst eptir, og líkprédikun

þar





þar við framflutt yfir Text. Ebr. XIII. v. 7, af Dómkirkjunnar Presti og Héraðsins Prófasti, er strax þar eptir var tilsettur Stiptprófastur í Hóla-stipti, Hra. Þorkéli Olafssyni.

Sálugi Biskup Arni, var hærri enn meðal-maður á voxt, réttvaxinn og grannvaxinn, limaður vel, og allur vel á sig kominn, nockuð grannholða, fljótur á fæti og í snúníngum, samt í fasi og framgaungu hvatlegur; brjóstið var reist, hendur og ármleggir miklir í liðum og sterklegir; annars allur líkamans skapnaður nettur, og þó karlmannlegur. Hann var friður maður sýnum, nockuð toginnleitur og grannleitur, var andlitsfarfinn hreinn og góður, meðan heilsa var bærileg; andlitið var bjartleitt, rett og vel fallið. Ennið og svipurinn yfir augun bar með sér alvörugéfni, hreinlyndi og frjálsleika. Augun vóru snör og fögur, mátti af þeim sjá fjör og ráðdeild, skarpleika og skorúngskap. Nefið var nockuð lángt, hvasst en ecki stórt, og lítið eitt hafið upp framan. Munnurinn rétt í máta stór; hakan stutt og að-dregin. Hann var bjartur á brún og brá, nockuð há-

 leit-



leitur, hýr og vidmótsgódur ad jafnadi, og þá eckért bar til stygdar. Af náttúru var hann brádlyndur, skaphardur og nockud fastlyndur, en fyrir skynsemi sína, æfíngu og lánga umgengni gódra og velsidadra manna, samt eginn setníng og adgæslu, tempradi hann mikid þá gédstilhnegíngu. Mótmæli þoldi hann illa, þegar honum þókti fyrir, var og ecki þess ad vænta, þá hann fann sig hafa rétt og víst uppá ad standa, ad hann vildi undan láta, hvørr seni í hlut átti; en væri sú søk, sem þá bar til umtals, framsærd med lempni og skynsemi, yfirvegadi hann hana í tómi, og gjordi þá þar vid þad, er honum réttast sýndist, því hann var madur réttsýnn og mikid frómlundadur, þar hjá svo hreinskilinn og einlægur, ad ecki þurfti óttast fyrir, ad hann taladi annad enn hann meinti. Eins og hann var hreinlyndur ad gédslagi, eins hreinskiptinn var hann í kaupum og sølum, vildi hann hvørr hefdi sitt, eins og vera átti, afdráttarlaust, en refjur og hreckir í vidskiptum vóru honum fjærri skapi. Vinfastur madur var hann, en úrtøku vina-vandur;

ur; vildi hann vinum sínum flest til þægdár og þénustu gjøra; rækinn var hann þess einnig og minnugur væri honum þénusta sýnd. Losord hans þursti enginn ad yggja, stódu þau sem stafur á bók; en mjøg var hann varkár í þeim hlut, og lofadi því einu, er hann fann sig ad géta endt. Hann hafdi einnig þá fágætu gáfu, ad útsjá menn, nockurnvéginn med vissu, ad sinnislagi edur náttúru-fari, edur hvørt med þeim bjó íllt eda gott, er sjaldan brást honum. Fornspár var hann; rættist þad opt, er hann, í samqvæmi gódra vina, sagdi ad mundi ákoma vid daginn; má þad eitt telja medal annars, ad Skálholts Biskupsstoll og skóli mundi flytjast til Reykjavíkur, og hinar adrar kirkjurnar aftakast, sem hann optar enn eitt sinn fyrisagdi, þá ed hann var Prestur á Seltjarnar-nesi.

Raungódur madur var hann vid þá, sem bágstaddir vóru, þegar þad var ecki sjálfra þeirra tilverknadi ad kenna, sýndi hann þad hér á mørgum fátækum eckjum, í hardærinu, sem enn þá med þacklæti minnast hans í grøfinni; en órádvandir menn, ónytjúngar og svall-

 

arar og letingar vóru honum leidir, samt þjófar og illmenni, vildi hann ecki sjá þá né heyra, heldur láta vid þá hondla beint eptir logunum.

Hann var kraptamadur í betra lagi, og knár til áreynslu medan heilsu hafdi; heppinn til handtaka, lagvirkur og fylginn sér, var og einnig hagur madur, þó hann legdi þad lítt fyrir sig, þar hjá hagsýnn, og hafdi góda greind til ad segja fyrir verkum, smídi og byggíngum, sem best mátti fara.

Ydju- og framqvæmdar-madur var hann enn mesti, sem ádur er ávikid, mátti þad vel sjá, eptir þad hann hér nordur kom, þó hann hefdi þá bædi morgu ad gegna og lina heilsu med ad dragast, hve miklu hann féck í verk komid, og jafnframt hafdi hann þó gloggva tilsjón og forsogn fyrir sínum heimilis háttum, og því, sem búinu var vidkomandi, er hann lét allt í réttri reglu gánga, og þar hjá stundadi hann þó med jafnadarlegri alúd uppfrædíngu og mentun sona sinna mestann partinn sjálfur, til þess uppá hid sídasta; vóru þeir

ordnir

ordnir betur ad sér í ad skrifa og reikna, enn flestir únglíngar á þeirra aldri, þá hans misti vid.

Gladlyndur madur var hann af náttúru, og hafdi yndi af sómasamlegri skémtun og lystisemi; sóktist hann mjøg eptir selskap og samneyti meiri-háttar-manna, lærdra og skynsamra, sidlátra og hæverskra, hvar vid hann hafdi og mikid vanist, bædi utanlands og innan; var og ad sjálfum honum, sem vitrum og gladsinna manni, mikil selskaps-bót og prýdi, því hann var og einn hinn nettasti og kurteysasti. Þaramóti hafdi hann vidbjód á rustaskap øllum og ónettu háttalagi, hvort þad var í hegdun, lætædi, tali eda klædaburdi, og héldt á slikri útvortis óhæversku, mætti marka einhvorja óreglu ens innra mannsins. En þótt hann þannig elskadi kurteysi og nettleika í umgengninni, þá samt medkénndi hann, ad þad væri til vorkunar ad virda hér í landi, þó nockud kynni þar á ad vanta; sumir hefdu litla náttúru med þad, og sumir landa vorra, einkum hinir ósigldu, er ecki hefdu gétad samid sig eptir sidum útlendra sidprúdra manna, hefdu litla æf-



íngu edur umgengni hafst til ad fá numid slík-
ar reglur, er gódar væru med ødru gódu; en
þegar madurinn annars hegdadi sér vel, væri
frómlundadur og rádvandur, og rækti stand
sitt og køllun med dygd og trúskap, væri hann
æru- og elsku-verdur, hvad sem hinu lidi; hafdi
hann og ánægju af, ad tala opt lángstundum
vid greinda og eptirtektasama bændur, hvørja
hann qvadst meira virda enn þá embættismenn,
sem óhaglega eda med vanrækt framqvæmdu
embætti sín. Sjálfur var hann skartsmadur,
þó í hófi, elskadi hreinlæti og nettleika í hvør-
jum hlut, bædi hjá sér og ødrum. Hann var
sparsamur án allrar nídsku, veitti þeim vín,
er til hans komu og vid hann áttu erindi, rétt
í máta; en vid bordhald sitt og Kaffee-dryckju
vildi hann gjarna hafa góda og skémtilega menn,
væru þeir þá nálægir; og þegar hann héldt
veitslur vid eitthvørt tækifæri, veitti hann ør-
látlega. Í samqvæmi vina sinna var hann
lifslegur, frjáls og gladsinna, og vildi med øllu
móti fá þá til ens sama, og ørsadi þá til þess
med veitingum og gladlyndi. Færri munu geta

ordid

ordid yndislegri enn hann þá var, kryddadi hann og gledina med nytsomu og skémtilegu tali, var ætíd í því skarpleiki, skémtan, uppfræding og lærdómur; lét hann sér og ecki lægíngu þykja ad fræðast í einhvorju af þeim, ef þeir komu med eitthvad þad, er hann hafdi ecki ádur adgjætt, og tók mjøg fúslega á móti því, þegar hann fann þad á rokum byggt; hann gladdi sig ásamt þeim med hóflegri víndryckju, þó traudt meir enn til mátulegrar hressíngar, mátti þá og nockud toluverdt ískérast, til þess honum þækti fyrir.

Hálærdur madur var hann, sem hér ad framan sýnt er; stundadi hann alltaf lærdóm, og hafdi þar til bestu gáfur og áhøld; vóru þess vegna lærdir menn hjá honum í miklum metum. Hér nyrdra heyrdu menn hann tala Dønsku og Látínu med snild og prýdi, fyrirhafnarlaust, og fullt eins vel, sem sitt módurmál; Svensku og Þýdsku kunni hann vel, og bar gott skynbragd á Frønsku, en um Hebresku og Grísku er ádur talad, sem hann lagdi sig eptir vid Háskólann, og átti hann bædi



góðar og þjenlegar bækur í þessum túngum. Hann stundaði og mikið þá gomlu og óspilltu íslendsku túngu, eptir það hann nordur kom, og qvaðst vera framar inntekinn af hennar snild og prýdi, sem findist í fornritunum, enn hann hefði verið nockurntíma fyrri. Einnig hafði hann yndi af snotrum Ljóðmælum á Íslendsku, og góðra skálda verkum, var hann og sjálfur hagmæltur, og hefir nockur ljóðmæli samið, helst andleg. Það er annars í stuttu máli að ségja: að særstar munu verið hafa þær lærdóms-greinir, sem gagnlegar vóru, og á hans dogum tídkudust, er hann hefði ecki gott skynbragð á.

Prests-verk fóru honum oll vel úr hendi; var hann góður og uppbyggilegur Prédikari, hélt trúlega við sitt fyrirtekna efni, útlistaði það náqvæmlega, og skyldi við það að lokunum með ypparlegri heimfærslu, til uppbyggíngar og siðbóta; var hann snjallmæltur og einarðlegur í stól, einnig fyrir altari nettur; hafði hann saung-hljóð snjoll og mjúk, en ecki mjog sterk; mátti það og heyra, að hann þoldi

ecki,

ecki, vegna síns veika brjósts, ad reyna mikid á hljód sín. Í Katechisationum var hánn enn lipraſti madur, og mátti Þad jafnan finna, ad hann var af náttúru lagadur til ad kénna og uppfræda. Vid veika og sturlada var hann enn náqvæmasti, og vardi bædi náttúru-gáfum sínum og lærdómi, til ad géta ordid Þeim til bestu nota, í Þeirra bága ástandi.

Svo sem hann var snillíngur sjálfur, svo vildi hann og einnig ad Prestar og adrir, er hann hafdi yfir ad segja, vonduðu öll verk sín, og stædu med trú og dygd í sínu embætti, var hann Því sídavandur, og kunni Þad lítt, Þegar eitthvad géck hjá Þeim ólaglega edur í hyrdulеysi; máttu Þeir ega Þad víst, ad fá Þar um bendíngu frá honum. Hina, sem hann Þeckti dugnadar-sama og kostgæfna í embættinu, elskadi hann og virdti. Í egin embættis út-réttíngum og erinda framqvæmd var hann al-varlegur, úrræda-gódur, öruggur, en Þar hjá gjætinn og réttsýn; hafdi hann Þá gáfu ad géta sjed nockurnveginn ígégn, hvorrar sakar ásigkomulag, sem og ad velja Þann beinasta



og umsvifa-minnsta veg, til ad fá hana til enda kljáda; gengu því slíkar erinda-gjørdir skjótara og fyrirhafnar-minna af hjá honum enn mørgum ødrum; og þó hann væri kappsamur, og sýndist opt vilja sitt fram hafa, vantadi hann þó ecki lempni og bidlund, þegar hann vildi því beita, og sá sig þar med meira gott framqvæmt geta. Jafnvel þó honum ecki, sem fyrr er ritad, gæfist tækifæri til ad vísitera Stiptid, rak hann þó engu ad sídur med røggsemd eptir uppfrædingu úngdómsins, og ad Presta-gørdum, kirkjum og kirkjugørdum væri haldid í forsvaranlegu standi. Eina af Dómkirkjunnar kluckum, er sprúngin var, og óhæf til þjónustugjørdarinnar, lét hann sigla til umsteypíngar, og skeinkti þaradauki kirkjunni prýdilegar Bakstur-dósir af sylfri, er kostudu hér um 20rdli *)

Gudhræddur madur var hann og vel trúrækinn; lét hann lesa Guds ord kostgæfilega í

sínu

*) A medan hann var Prestur á Seltjarnar-nesi, átti hann ecki lítinn þátt í því, ad Ness-kirkja var uppbygd ad nýju, og Reykjavíkur-kirkja tøluverdt endurbætt.

sínu húsi, og vildi því væri veitt góð eptirtekt med andakt og gaumgæfni. Hann prédikadi sjálfur margopt, eptir þad hann var Biskup ordinn, líka og, þá Prófasturinn var ecki heima á helgum, flutti hann heilaga þjónustu-gjørd, medan heilsu hafdi, svo ecki yrdi messu-fall, var og vel kirkjurækinn, og geck sjaldan burt, fyrr enn þjónustugjørdinni var ad øllu leiti lokid. Opt var hann vid saung, annadhvort í kirkjunni sjálfri eda skrúda-húsinu, hvar hann og, einkum eptir þad hann vard heilsuveikur, optast var, medan prédikunin yfirstód, til ad géta heyrt þad med var farid, þar hann þá ecki treysti sig til ad sitja í sæti sínu allann messutímann út. Sýndi þetta hvílíka laungun hann hafdi eptir því, ad heyra Guds sáluhjálplega ord.

Margt kann fleira merkilegt vera um vorn sæla Biskup ad segja, þó hér, fyrir ókunnugleika sakir, undanfelliſt; en af því, sem ádur er talid, má þó sjá, hvørr nytsemdar-madur hann var, og hvørsu árvakur og framqvæmdarsamur í sínum embættum. Hann elskadi ávallt dygd og dugnad; vildi útbreida mentir

og



og upplýsíngu eptir megni; elskadi fødurland sitt innilega; var forsjáll, stjórnsamur, reglu- fastur og gudrækinn madur, bædi í Guds og sínu egin húsi; og er ecki þetta sagt til þess, ad vilja lofa hann um of, edur hræsna fyrir hans nú lifandi náúngum og vinum, heldur til ad unna honum sannmælis í grøfinni, eptir forþénustu og verdugleikum.

Hann þjónadi hér í hinni mædusømustu og báguſtu tíd; kom híngad flestum ókunnugur, og ávann sér þó, þann stutta tíma hann dvaldi hér, margra velvild, og söknud þegar hann burtkalladist. En þó hann hafi ecki øllum í géd fallid, er ecki ad undra, því bædi var hann madur, og mannlegum breiskleikum undirorpinn; þar hjá getur og vel skéd, þegar nockurr stjórnsamur yfirmadur vill med alvöru- gésni stunda sitt embætti, ad øllum komi þad ecki sem best, og ad hann kunni ad verda fyrir álasi þess vegna, þó tilgángurinn hafi annars verid gódur, og slíkt hafi skéd af honum í bestu meiníngu. Þad er gamall ágalli á oss mønnunum, ad vér erum ófullkomnir, og þad forn-

qvedna

qvedna er sannleikur: Enginn gjörir svo øll- um Rki, og ecki Gud í Himnaríki —

Vors sáluga Biskups Eckju-frú, lét út- vega og yfir hans leidi setja mikinn og vand- adann Legstein, á hvorn þessi Grafskrift er høggvin, samin af Hra. Biskupi Schønheider:



Reliqvit huic tumulo
Qvod mortale fuit
ARNAS THORARINI FIL.
Episcopus Holensis
Natus d. XIX. Augusti MDCCXLI.
Qvi
Virtute cœlitus data
Se fingens
In Universitate Havniensi
Scientiis & laudibus auctus
Redux
De patria optime meruit
Veri rectiqve tenax
Laborum patiens
Officio fidus
Omnibus bonis carus
Cœlestia aspirans
Veram patriam nactus

Orbam



Orbam Familiam
Tutelae Numinis commisit
D. V. Julii Anni MDCCLXXXVII.

Þessari Grafskrift hefir Hra. Logmadur
B. Grøndal þannig á Islendsku snúid:

Legstad þessum.
Likam sinn.
Arni Þórarinsson
eptirskildi.
Biskup ad Hólum.
borinn
nitjánda. Augústí mánadar.
ár
seitján hundrud. fiøruthgi. og framar einu.
Dád himneskri.
sér dugnad jók.
í Kaupmannahafnar. háum skóla.
lærdóms mentum. og losi aukinn.
útkominn aptur
abladi sínu. frábærs gagns. fødurlandi.
Rétt og satt. rækti fastliga.
í starfsemi. støduglyndur.
og embættis. ønnum trúr.
gédþeckur øllum. gódum mønnum.

Hann

Hann til himins. hêdan kèppti.
og fødurland. fèck hid sanna.
Forstødulausann. fól til gætslu.
umsjá gudlegri. allann varnad.
dag fimta Júlí.
frá Drottins burdi.
ár
seitján hundrud. áttatygi og sjø.



Røksemd, hreinskilni, hjarta gott
Og hald á einørd sinni,
Ordstýrs þann besta veit eg vott,
Er varir lengst í minni.

Arna Biskupi unna slíks
Allir, sem manninn þecktu.
Ords ef þú villt þèr abla liks
Otraudur spor hans rektu.

Þad af honum sem þolir hel
Preyir til óska-funda.
Hans eptirdæmi vísi vel
Vilja Drottins ad stunda!

---



# Ettartala
## sáluga Biskupsins
# Arna Þórarinssonar.



Hans Fadir var Þórarinn, lærdur og guð-hræddur merkis-madur, Prestur ad Hjardarholti í Laxárdal og Prófastur í Dala-sýslu, er deydi 1752. Fadir hans var Jón, Prestur og Prófastur samastadar. Fadir Jóns var Þórarinn Jónsson, Prestur ad Hrafnagili og Prófastur í Vødlu-sýslu; en Fødur-fadir Þórarins var Þorsteinn Finnbogason Løgmanns, Jónssonar Prests á Grenjadarstad, Pálssonar, er lengi var í Hyrdstjórastad, Þorvardssonar. Qvinna Jóns Prófasts Þórarinssonar í Hjardarholti, en fødur-módir vors sæla Biskups, var Rannveig, einka-dóttir Jóns Klaustur-prests til Reinistadar, Einarssonar, Umbodshaldara á Hraun-

Hraunum í Fljótum, Skúlasonar, audugs manz, Einarssonar; Skúli átti Steinunni, laundóttir Gudbrands Biskups Þorlákssonar á Hólum, hvers ættleggur er alkunnugur. Qvinna Einars Skúlasonar á Hraunum, var Þuridur, dóttir Sigurdar Prests í Goddolum, Jónssonar; en qvinna Jóns Prests Einarssonar, (sem druknadi í Héradsvötnunum), var Steinum Hallgrímsdóttir Prests ad Glaumbæ og Prófasts í Hegraness-sýslu, samt Officialis Hólastiptis, Jónssonar Prests til Hoskuldstada í Húnavatns-sýslu, Thómássonar Prests til Mælifells. Ektaqvinna Hallgríms Prests í Glaumbæ, var Cecilia Bjarnadóttir, þeirra son var og Bjarni, Prestur ad Odda og Prófastur í Rángár-þíngi, er deydi hér um 1723. Qvinna Þórarins Prófasts á Hrafnagili, en módir Jóns Prófasts Þórarinssonar, var Haldóra Þorsteinsdóttir, Prests ad Vesturhópshólum í Húnavatns-sýslu, Ásmundssonar, Þorsteinssonar, Gudmundssonar, Andréssonar, Gudmundssonar ríka Arasonar. Qvinna Þorsteins Prests Ásmundssonar, en módir Haldóru, var Margrét Bjarnadóttir, Pálssonar Grímssonar, Þorleifssonar á Modruvöllum, en módir Margrétar var Haldóra Bjørnsdóttir

D Prests,



Prests, Jónssonar Biskups á Hólum, Arasonar. Qvinna Ásmundar Þorsteinssonar, var Þuridur Þorbergsdóttir, Bessasonar Sýslumanns í Bodlu-sýslu og Helgu Finnbogadóttir Lögmanns Jónssonar, bródir Brands Lögmanns Jónssonar.

Ektaqvinna Þórarins Prófasts í Hjardarholti, en módir vors sæla Biskups, var Astridur Magnúsdóttir Prests ad Hvammi í Hvammssveit og Prófasts í Dala-sýslu, er bródir var Assess. Arna Magnússonar og Jóns, fadur Snorra Prests á Helgafelli, fadur þeirra Gísla Prests í Odda, Prófasts í Rángár-þíngi og Officialis Skálholts-stiptis, Gunnlaugs Prests á Helgafelli og Jóns Sýslumanns í Hegraness-sýslu. Fadir Magnúsar var Magnús Jónsson, fyrst Prestur til Qvennabrekku í Dala-sýslu, en þar eptir Sýslumadur í sömu sýslu, og deydi 1684, lærdur madur og læknir gódur. Módir þessa Magnúsar, var Jórun Gísladóttir, ektaqvinna Jóns Prests Ormssonar á Qvennabrekku; fadir Jórunar var Gísli bóndi í Saltardalstúngu á Medalfellsströnd; fadir Gísla var Jón bóndi á Svarfhóli, er átti Gudrúnu Arnadóttir frá Ölldarenda; fadir Jóns var Olafur Prestur í Hjardarholti, hér um 1530,

Gud-

Gudmundarson á Felli í Kollafirdi, Andréssonar, Gudmundssonar á Reykhólum ens ríka, Arnasonar ens ríka, Gudmundssonar; en ektaqvinna Gudmundar á Reykhólum, var Helga Þorleifsdóttir Hyrdstjóra, Bjørnssonar ens ríka í Vatnsfirdi, og Olufar Loptsdóttur ríka á Modruvøllum; en Bjørn Hyrdstjóri var sonur Þorleifs Arnasonar Riddara og Vatnsfjardar Kristinar Bjørnsdóttir Jórsalafara, Einarssonar, Eyrikssonar Riddara, Sveinbjarnarsonar, Sigmundssonar, er átti Herdysi, dóttur þess gódfræga manns Rafns Sveinbjarnarsonar á Eyri, Bárdarsonar ens Svarta, er þjónadi Magnúsi Kóngi enum Góda. Qvinna Eyriks Riddara Sveinbjarnarsonar, var Vilborg Einarsdóttir, Þorvaldssonar frá Vatnsfirdi; átti Þorvaldur Þurídi Snorradóttir Løgmanns, Sturlusonar, og má þessar ættir telja til Kónga í Danmorku, Norvegi og Englandi. Gísli Jónsson í Galtardalstúngu var dóttursonur þess nafnfræga høfdingja, Arna Sýslumanns Gíslasonar á Hlídarenda, Hákonarsonar, Hallssonar, Finnbogasonar, Jónssonar Lángs, sem getid er í Annálum. Módir Jóns Olafssonar á Svarfhóli, var Ingiridur Gudmundardóttir, systir Dada bónda í



Snóksdal. Ektaqvinna Magnúsar Jónssonar Prests og Sýslumanns, en módir þeirra brædra, Assess. Arna, Magnúsar Prófasts í Hvammi og Jóns Magnússonar, var Gudrún Ketilsdóttir Prests ad Hvammi og Prófasts í Dala-sýslu, Jørundssonar, en módir Gudrúnar var Gudlaug Pálsdóttir, Erasmussonar, Willadssonar,*) er átti Helgu dóttir Gísla Biskups Jónsonar. Ektaqvinna Magnúsar Prófasts Magnússonar, og módurbródurs vors sæla Biskups, var Sigrídur Jónsdóttir, systir ens margfróda Løgmanns Páls Vídalíns.

*) Erasmus Willadsson, var fæddur á Jotlandi, og kom úngur til Islands; vard fyrst Prestur til Garda á Alptanesi, þar eptir til Odda á Rángárvøllum, og sídarst til Breidabólstadar í Fljótshlíd; hann giptist Helgu Gísladóttir Biskups í Skálholti, Jónssonar, árid 1565, og áttu þau saman 9 børn. Hans sonur Páll, var fyrst Prestur til Hóla í Hreppum, og sídan Kirkju-prestur í Skálholti, deydi 1642.



Efi-



# Æfisaga
## sálugu Biskups-Frúr
# Steinunnar Arnórsdóttur.



Hún er borin og barnfædd í þenna heim að Dúnk í Hørdudal í Dala-sýslu, þann 28da Octóbr. 1737. Í foreldra húsum uppólst hún til síns 24da aldurs árs, nefnilega: 2 ár á sínum fædingar-stad, sídan 4 ár á Bæ í Middølum, og loksins á Belgsholti í Borgarfjardar-sýslu 18 ár, ad hvorjum tíma lidnum hún veik, árid 1761, til þeirra Hávelbornu hjóna, nú verandi Stiptamtmanns yfir þessu landi Hra. Olafs Stephánssonar og Frúr Sigrídar Magnúsdóttur, í hvorra þjónustu hún dvaldi alls 9 ár, fyrst á Leirá

 í Borg-



í Borgarfirdi 5 ár, og þar eptir á Kóngs-gardinum Bessastødum 4 ár, um hvørn 9 ára tíma vor sáluga Frú nam allar þær handy-ðnir, netteika og mentir, er prýda og farsæla máttu eina höfdings Jómfrú og konu af henn-ar standi; þvi fyrir utan þad ad hún siálf var bædi ástundunarsøm og námfús, vantadi hana heldur ecki tilsøgn hiá þeirri ad dygdum, qvenn-kostum og handydnum nafnfrægu Frú Sig-rídi Magnúsdóttur; unni hún henni mikid, því hún fann hiá henni gáfur þær, sem leida á dygda og farsældar veg; elskadi einnig vor sæla Frú, þessa sína ágætu Húsmódur til daudans.

Arid 1770 þann 1ta Júní á hennar 33ia aldurs-ári, inngeck hún heilagann ektaskap á Kóngsgardinum Bessastødum, med hálærdum Atteſtato Arna Þórarinssyni, þá verandi Sóknar-presti til Seltjarnar-ness-þínga, og veik strax þar eptir til hans bústadar Lamba-stada. Blessadi Gud þeirra hiónasæng med 9 børnum, 7 sonum og 2 dætrum; deydu þær bádar úngar, og 2 sonanna burtkølludust í





bólunni 1786, en 5 eru enn þá lifandi, nefnilega: *a.*) Magnús, Capellán til Flugumýrar og Hofstada í Skagafirdi, giptur Mad. Aunnu Þorsteinsdóttur. *b.*) Gudmundur, Studiosus í Kaupmannahøfn. *c.*) Páll, Djákni á Mødruvalla-klaustri í Vødlu-sýslu. *d.*) Jóhann, Pro-Conrector vid Reykjavíkur-skóla. *e.*) Arnór, Studiosus Theologiae, giptur Mad. Margréti Bjørnsdóttur.

Sumarid 1782 flutti hún, ásamt sínum elskada Ektamanni ad Odda á Rángárvøllum, hvar hún einúngis feck ad dvelja 2ja ára tíma, þad fyrra í návist sins kjæra Ektamanns, en þad sídara útaf fyrir sig, þá hann, eptir konúnglegri skipun, reisti til Kaupmannahafnar ad taka þar Biskups vígslu. Ad hennar sáluga Ekta-herra aptur til landsins komnum, sumarid 1784, fluttist hún ásamt honum nordur ad Hólum í Hjaltadal, hvar hún fyrst reyndi missir tveggja sona sinna, Þórdar og Þórarins, úr bólunni 1786, sem ádur er ávikid, og á sama ári burtkølludust hennar háeldrudu elskulegu Foreldrar.



Sumarid 1787 þann 5ta Júlí, þóckn-adist lífsins og daudans Herra, ad burtkalla fyrir tímanlegann dauda, til sinnar eilífu sælu, hennar heittelskada Ekta-herra; var hún þá einmana eptir med 5 sonum sínum, öllum á ómaga-aldri, þeim eldsta á sínu 15da og þeim ýngsta á 10da ári. Kostadi hún alls kapps um, og lèt sèr öllu framar um þad hugad vera, frá þeim tíma, ad halda þeim, eptir ýtrustu kroptum til manndóms og menta, hvar til hún eckért sparadi. Gud, sem lofad hefir ad vera fadir födurlausra og forsvar eckn-anna, hagadi því einnig svo, ad Hra. Stiptamtmad-ur Olafur Stephánsson, tók ad sèr til fóstr-urs og frekari menníngar son hennar Jóhann, árid 1790 á hans 15da alldurs ári, setti hann til kénnslu í Reykjavíkur Látínu-skóla, á vetr-um, en hafdi hann sèr vid hönd á sumrum, uns hann var reglulega útskrifadur; var hann 2ur árum þar eptir tilsettur, ad þjóna Pro-Conrectors Embættinu vid sama skóla, fyrst um sinn. Hinn annann son vorrar sálugu Frúr, Pál, tók Hra. Amtmadur Stephán Þórar-insson





insson til sín árið 1792, lét kénna honum út í Hóla-skóla og útvegaði-honum síðan Djákna-braud á Mødruvalla-klaustri. Eldsti sonur hennar, Magnús, var vígður til Capelláns í Flugumýrar og Hofstaða-sóknum nærstliðið haust, og Arnór, sá yngsti, var reglulega di-mitteradur frá skólanum vorið 1799. Var henni það ecki all-lítil gledi, að sjá og vita sína elskudu syni þannig komna til vegs og virð-ínga; prísaði hún einatt gódann Gud, fyrir þá dásamlegu hjálp er hann veitti henni, og gleymdi heldur ecki að þácka þeim velgjorda-mønnum sínum, er hann uppvakti henni til styrktar.

Eptir hennar sæla Ekta-herra burtfør af heimi þessum, dvaldi hún fyrst 2 ár á Bisk-upsstólnum, en um vorið 1789, flutti hún bú-ferlum að Flugumýri í Skagafirði, hvar hún lifði 10½ ár. Optast var hún við bæri-lega, þó jafnan lina heilsu, og qvartaði opt um sára tilfinníngu undir síðunni (malum hy-pochondriacum) og fyrir brjóstinu, frá úng-um aldri, gat þó ætíð haft umsjón med búi

 sínu



sinu, og það því viðvèk, þar til loksins, henn-ar bana-sótt greip hana, að morgni þess 3ja Nóvembr. 1799 (þá hún var nýstigin af sæng sinni), með stríðum fóta-verk og skjálfta, er strax gagntók allann líkamann, festi sig þó hvað helst undir hægri síðunni og fyrir brjóstinu, með yfirmáta miklum þýngslum og mæði, samt höfuð- og bein-verkjum, er alltjafnt fór í voxt, einkum brjóst-þýngslin, til þess þann 7da Nó-vembr., tók þá máttur inn smámsamann meir og meir að þverra og málið að minka, uns Guði þóknaðist, með hægu andláti, hèr um kl. 4 e. m., að viðstöddum öllum hennar sama-staðar nálægum ástvinum, að lètta allri henn-ar mæðu, þá hún áður, með ydugleg um bæn-um og andvörpunum, hafði með óskérdtri rænu falið sína sálu Guði á hendur. Er hún svo á sínu 63ja aldurs ári skilin við þetta ar-mæðufulla líf; hafði hún þá lifað í Hjóna-bandi 17, og Ekkju-standi ekki fullt hálst 13da ár. Hennar andvana líkami er lagður, þann 20ta Nóvembr., í gröf hjá hennar sáluga Ekta-herra, í Hóla Dómkirkju-garði, eptir sjálfrar

hennar

hennar fyrimælum, med sómasamlegri vidhöfn, og framfluttri líkrædu yfir Text. Lúc. I. v. 49, af Stiptprófasti Hra. Þorkeli Olafssyni.

Sáluga Frú Steinun var fullkominn medal-qvennmadur ad hæd, grann- og nett-vaxin, nockud ávøl á herdar; ad andlits-skapn-adi framar krínglu- enn togin-leit, og í med-allagi litud ad andlits-farfa; bólugrafin var hún, med hátt en ávalt enni; nefid var í med-allagi, og nockud hátt framan; munnfríd; nock-ud smá- og ljós- mó-eygd; ljósjørp á hára-lit; sómdi sér ætíd vel, og var med enu nett-asta qvennfólki.

Af náttúru var hún fljótlynd, en sérlega léttlynd; tók hún sér Því ógedfeld tilfelli aldrei ofnærri, heldur yfirvann Þau med Þolgædi. Vid sinn Ekta-herra var hún ástudleg og elskuleg, og stundadi hann í øllu, sem best; veik sjald-an frá sæng hans í hans sjúkdómi, og leitadi hønum allra Þeirra hægda henni vóru møgu-legar. Í umgengni sinni audsýndi hún ein-stakt frómlyndi og hreinskilni, var jafnan glad-lynd og vidfeldin, eins vid framandi sem kunn-uga.



uga. Fyrir þjónustu-fólki sínu bar hún mikla umhyggju; og reyndist því, sem góð módir; var því örlát, gódsöm og alúdleg; hvatti það til ydni, þrifnadar og sparsemi med einsamalli gódfýsi; lét hún jafnan í ljósi meiníngu sína med greind og alvörugêfni, en öldúngis reidilaust. Gêstrisin var hún og gódgjördasöm vid alla, einkum fátæka og naudlídandi, hvörjum hún var ætid reidubúin til adstodar eptir frekasta megni. Utsjónar og forstands kona var hún mikil, og hafdi góda greind á búskaparháttum. Í húsfstjórninni var hún mikid ydjusöm og ástundunarsöm, regluföst, þrifin, sparsöm og hagsýn. Hún kunni qvenna best handydnir, og vandadi yfrid vel öll sín verk, því hún var gædd enum bestu hugvits- og náms-gáfum til munns og handa. Danska túngu skildi hún vel, reiknadi sæmilega, skrifadi qvenna best, var prýdilega fród í Ættartölum, og hafdi frábært minni. Vinföst var hún og en tryggvasta kona vinum sínum, og þeim, er hún þóktist ega ad launa einhvörja velvild. Börnum sínum reyndist hún en elsku- og dygdarík-





ríkasta módir, og lagdi alla alúd á þeirra uppfrædíngu og mentun, sem ádur er ávikid. Hún var gudhrædd kona, elskadi dygd og Guds ótta, ydkadi og lèt ydka Guds ord kostgæfilega í sínu húsi, undanfeldi aldrei, ad naudsynjalausu, ad hlýda Gudsþjónustu í kirkjunni; og nú sídarst þann 23 Sunnud. eptir Trinit., edur 27da Oct., rèttri viku ádur enn hún tók sína helsótt, medtók hún, til trúarstyrkíngar sinni sálu, Jesú Krists allraheilagasta líkama og blód í Qvøldmáltídarinnar-sakramenti, í sinni sóknar-kirkju.

Med burtför vorrar sálugu Frúr Steinunnar af heimi þessum, er sæckad einni ágætri, dygdaríkri og síns sáluga Ektaherra verdugri Konu, barna sinna umhyggjusømustu bestu Módir, og sinna undirgefinna ástríkustu Húsmódir; hennar sakna því allir sannir dygdavinir, sem þecktu hana, en einkum og allrahelst hennar eptirlifandi, og módurmissirinn sárt harmandi Synir. — —

---

Ett-



# Ettartala

## sálugu Biskups-Frúr

# Steinunnar Arnórsdóttur.



Hennar fadir var Arnór Jónsson, er fyrst var Lögréttumadur í Dala-sýslu 5 ár, og þareptir Sýslumadur í Borgarfjardar-sýslu 17 ár; lögvitur madur í sinni tíd, og gódur Antiqvarius, hvar til hjá honum lagdist gódur grundvöllur (ad sjálfs hans vitni) þau 3 eda 4 ár, sem hann var Þénari ens lærda Lögmanns Páls Vídalíns. Jón, fadir Sýslumanns Arnórs, var Lögsagnari Lögmanns Vídalíns í Dala-sýslu; hans fadir var Arnór Ásgeirsson á Ljáskógum, Arnórssonar, Loptssonar Sýslumanns í Stranda-sýslu, af ætt Lopts ríka á Mödruvöllum í Eyjafirdi. Módir Sýslumanns Arnórs, en födurmódir sálugu Frúr Steinunnar, var Gudrún,

dóttir Sveinbjarnar Prests, Arnasonar á Trollatúngu í Stranda-sýslu, og sídar búandi ad Látrum vid Breidafjörd, Jónssonar, Björnssonar, Þorleifssonar Hyrdstjóra, er hafdi Riddara nafnbót, átti hann Ingveldi Helgadóttir Lögmanns og Kristínar dóttir Þorsteins Olafssonar Lögmanns, á Okrum í Skagafirdi. Fadir Þorleifs Hyrdstjóra var Björn ríki í Vatnsfirdi, hvörs hér ad framan er gétid í sáluga Biskupsins Ættartölu, bls. 51. *) Módir Gudrúnar Sveinbjarnardóttur var dóttir Gudrúnar Sigmundardóttur, systir Alfheidar, sem var módir Mag. Jóns Biskups Arnasonar, sonar Gísla á Galtardalstúngu, Jónssonar á Svarfhóli í Laxárdal, hvörs fyrr er gétid, (sjá bls. 50). Módir Jóns Lögsagnara Arnórssonar, var Ingibjörg Jónsdóttir, Péturssonar, Pálssonar á Stadarhóli, Jónssonar, Magnússonar á Svalbardi, hvadan Sval-

*) Einar, fadir Björns Jórsala-fara (þannig kalladur af því hann reisti þrisvarsinnum til Gydíngalands, Rómaborgar, Spán og vídar) átti þá nafntogudu Grundar Helgu; hún lét drepa 2 Kóngsins Ljensmenn med 14 fylgiurum þeirra, er vildu gjöra henni óspektir í fiærveru manns hennar. Eyríkur fadir Einars var sleginn til Riddara af Hákoni Kóngi Magnussyni, árid 1319.



Svalbards edur Stadarhóls ætt er kølluð. Módir Ingibjargar Jónsdóttir var Sigrídur Sigurdardóttir Prests ad Miklaholti, Finnssonar, Sigurdarsonar frá Okrum í Mýra-sýslu. Sigridur var tvígipt, og bjó med sínum fyrra manni Jóni Pêturssyni á stóra Vatnshorni í Haukadal; sídan giptist hún Gísla Olafssyni á Bæ í Middølum, átti med honum einn son, Sigurd (skáld í Dølum), er fadir var Jóns Sigurdssonar konstitúerads Sýslumanns í Dala-sýslu, er deydi barnlaus 1722.

Módir sálugu Frúr Steinunnar og ektaqvinna Sýslumanns Arnórs, var Steinunn Jónsdóttir fedur-systir sál. Biskups Arna; er sú ætt hêr ad framan talin, og gjørist því ecki þerf ad ítreka hana á ný á þessum stad.



Ein-



Einfaldir en velmeintir

# Qveinstafir,

yfir burtköllun

# Arna Þórarinssonar,

Biskups yfir Hóla-stipti.

Hafdir af einhvörjum

Jafnan Hann Syrgjandi.

Lagid er: Þier, Drottinn! þacka eg.

1. Uppdregur enn a) eitt ský,
Erid myrkt daudans regn;
Orsakad er af því
Islandi skadi megn;
Eg meina: Biskup Arni
Burt' er, trúlyndur Drottins þegn.

E 2. Miøg

a) enn, þad hefir fyrri skied, ad daudans skúr hefir burtfleytt Islands merkis-mønnum.



2. Mjøg vard sár missir hans,
Mest þó (sem von er á)
Eckju svo ágæts manns
Og Sonum henni hjá,
Sem úngum í breidri óslengum;
Sama um fleiri segja má.

3. Sókna= og sveita=mann,
Samt vídar, nær og fjær;
Þeir, sem grant þecktu hann,
Þeim traudt sár missirs grær;
Harmar mjøg Hóla=stipti—
Gud veit hvønær oss gefst svo kjær.

4. Ad lofa þann, lofs ei þarf
Og lángt yfir flesta ber
Agæti', er ónýtt starf,
Allra sist slikt mér fer,
Skyldan þó skipi' ad mæla,
Og segja þad eitt, sem sannast er.

5. Hann var ljós hreint og skjært,
Um helgann sem Jóhannes
Finnst skrifad b), feck þad lært
Ford=

b) Jóh. 5, v. 35.

Fordum Seltjarnar-nes,
Odda-sókn ásamt Hóla-c),
Munu lengi minnugar þess.

6. Vermandi velgjørdum
Vænt sem ljós, líkt og hinn d)
Huggadi heilrædum
Hvørvetna, þad eg finn;
En med því ódum tærdist e)
Kappsamur líffins kraptur inn.

7. Árvakur, ydnis mann,
Afbakad færd' í lag;
Embættis-verk sín vann
Vanda med bésta slag,
Utan kirkju sem innan,
Eru þess merki enn í dag.

 8. Hrein-

c) ɔ: Hóla-sókn; hann predikadi einnig opt í Hóla-dómkirkju, er greinir í hans Æfisøgu.

d) hinn, ɔ: Jóhannes.

e) tærdist; þad er ljóssins eginlegleiki ad lýsa, skemta og verma, en því betur og gladar, sem þad logar, því fljótar tærist og eydist þad.



8. Hreinlyndur, hjarta-trúr;
Heimsins varadist slægd;
Dvaltur eins og múr;
Avann sér frómra þægd.
Sakna' hans mjøg, sannir vinir,
Seinna meir best hans sannast frægd.

9. Gud sá, sem gaf oss þann
(Grátnir nú søknum hans)
Ágæta merkis-mann,
Mannvin, sins fødurlands
Æru og ættar-blóma,
Bæti oss missir besta manns!

10. Sof, vinur! sætt í frid!
Sál þin vid lambsins stól,
Guds barna' ad sannra sid
Sig gledur, fegr'enn sól.
Vona' eg þig fá ad finna,
Hérvistar þegar hættir ról.

---

Graf-




## Grafskrift.

Hulid hér þó nú hvíli
Hold Biskups Arna moldu,
Lof hans jørd hærra lifir
Lengi, sem kéfur enginn;
En sálin í himna-sælu,
Sannar þad hvørjum manni
Dagur ytsti, sem dregur
Dul af þvi nú er hulid.

## Onnur.

Lagid er: Hjartad, þánkar, hugur, sinni.

Hér i myrkvu hvíla rúmi
Hjónin bædi', ad dygdum merk,
Døckva par, til dregur af húmid
Dags sidasta birtan sterk:
Arni Biskup og hans Frú;
A þvi vissa festi' eg trú:
I einu bædi upp þau rísa,
Og ædsta' i nædi Gud samprísa.





# Tár
helgud ódaudlegri
# Heidurs Minníngu
Hóla Biskups
# Arna Þórarinssonar
og Frúr hans
# Steinunnar Arnórsdóttur
framlidinna.

---

Af augum lockud einum, sem þessa
A-stvini J-afnan S-yrgir.

Lagid er: Hvørr veit hvad fiærri' er æfi endi.

1. Skiálfandi hljódi hørpu-strengur
Hreifir, bærdur af sorgar mund;
Þegjandi burtu gledin gengur,
Grátur vill tala' á harma-stund.
Æ! kiæra gledi! kom! nej, flý!—
Kom sorg! eg hriggur til þín sný.—

2. Streymdú, sorg! út af mínum munni,
Mætti' ad eins hjartad léttir fá —
Dyn-





Dyuji tár, ef ad dragast kynni
Depruft ángistin sinni frá.—
Þøgn, einrúm, myrkur eru mér
Unum grátandi, hvar eg fer.

3. Hvøtt fló ad nordan harma-píla,
(Hún stack mig, sárid nýtt er enn)
Af Arna Biskups aldurtila;
En grátid lát hans, bestu menn!
Vid hans minníngu haldid trygd;
Heidrid svo lærdóm, trú og dygd.

4. Ungdómur! syrg þann kénna kunni,
Kénna sáfródum, lærdum med—
Upplýsíng! syrg hann, sem þér unni,
Sem fékk þér styrk hinn mesta léd.
O! hlæid dygdar hatarar!
Hlæid gódfrædis smánarar— —

5. Lands-vin hann var, og landsins sómi,
Lærdasti madur einhvørr víst,
Lagdi' hann stund á ad lærdóms blómi
Lifna mætti, en følna síst.
Sem Drottins heidskír hvelfing blá,
Hrein var hans lund og mild og há—.

6. O! ad eg fengi, eins og bæri,
A hvíldarstad hans blómstrum strád,
En



En þad hans líka einum færi —
Og — þøgn sé mitt vandræda ráð.
Þegjandi sorgar-tárin tíd
Tigni hans minning' fyrr og síd.

7. Jafnsárt mig annad høggid hæfdi
Høggvid nær mér — æ tvinnud neyd!
Sorgin hver adra yfirgnæfdi;
Er þad til harma-bótar leid —
Verdug Frú Biskups verdug'sta
Vidskildi Steinun harmdauda.

8. Daudans sigd á allt daudlegt bítur,
Daudlegt gódfrægra nafn er síst,
Med alda-straum þad ei burtflýtur,
Med øldum blóm þess meir útbrýtst.
Lifir sig daudann dyggur hver —
Deyr sig lifandi — gledjumst vér!



Prentvillur:

Bls. 35 lín. 11. Fornspár, les spár.
„ 37 „ 14, lætædi, „ latædi.



